# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

13. árg. WINNIPEG, OKTÓBER 1898. Nr. 8.

## Sálmr

eftir séra VALDEMAR BRIEM, út af Lúk. 7, 36.—50.

(Lag: Hjartkæri Jesú, af hjarta eg þrái.)

1. Minnist eg þess nú, er meistarinn forðum
mildr og blíðr í heimboði var:
Bersyndug kona þar kemr að borðum,
krýpr að fótum síns meistara þar;
tárunum skínandi laugað þá lætr,
lokkunum hrynjandi strýkr hún þá,
kossunum brennandi kyssir hún fœtr,
kryddsmyrslum ilmandi rýðr þar á.

2. Sjá þú nú skuld þína, syndugr maðr;
svo breytti konan, en hvað gjörir þú?
Veraldar tálstigu gengr þú glaðr,
gefr ei mikið um drottin þinn nú.
Hvar eru tárin, af hvörmum sem renna?
hvar eru lokkarnir þerrandi tár?
hvar eru kossarnir, heitir sem brenna?
hvar eru smyrslin þín, grœðandi sár?

3. Sjá þú nú skuld þína, sála mín eigin;

sek ertu líka, þótt miðr sé bert;
hér þótt þú gangir ei glœpanna veginn,
guðs þó í augum þú bersyndug ert.
Mikið þú syndgað og margsinnis hefr,
mikil er sekt þín, ef rétt er að gáð;
miklar þér skuldir upp meistarinn gefr,
mikið því elska þú skyldir hans náð.

4. Drottinn þér svalar á lifandi lindum;
lát hann í staðinn fá iðrunartár.
Drottinn þig laugar af löstum og syndum;
lát hann og afþerra tárvotar brár.
Drottinn á vistum þig dýrðlegum fœðir;
drag þú ei lengr að mynnast við hann.
Drottinn þig viðsmjöri gleðinnar gœðir;
göfga þú, prísa þú meistara þann.

## Bandalagsfundrinn,

sem í fyrra á kirkjuþingi var ályktað að haldinn yrði í sambandi við kirkjuþing þessa árs, var eins og áðr er um getið boðaðr af séra Jónasi A. Sigurðssyni í nafni þingnefndarinnar, sem síðastliðið ár hafði haft bandalagsmálið með höndum, og haldinn í Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg þriðjudaginn 28. Júní. Og stóð það fundarhald yfir frá kl. 9 f. m. til kl. 5 e. m., að undanteknu máltíðarhlé eftir hádegi. Fundrinn byrjaði með sálmasöng og bœnagjörð. Stud. theol. Runólfr Marteinsson flutti bœnina. Síðan var fundarstjóri kosinn séra Jón J. Clemens og skrifari Árni Eggertsson.

Öll hin sjö bandalög, sem þegar hafa myndazt innan kirkjufélagsins, höfðu sent fulltrúa til fundarins, og hafði tala þeirra verið miðuð við meðlimatölu í hinum ýmsu bandalögum. En þessir voru fulltrúarnir: séra Björn B. Jónsson, Ó. G. Anderson og ungfrú Matthilda Westdal fyrir bandalag St. Pálssafnaðar í Minneota; Brandr J. Brandsson og Jón K. Ólafsson fyrir bandalag Garðar-safnaðar; Runólfr Marteinsson fyrir bandalag Þingvallasafnaðar; Guðjón Guðvaldsson og Jón Þórðarson fyrir bandalag Vídalínssafnaðar; Árni Eggertsson, Halldór S. Bardal,

frú Lára Bjarnason, Magnús Pálsson og Ólafr S. þorgeirsson fyrir bandalag Fyrsta lúterska safnaðar í Winnipeg; frú Pálína Steinsson fyrir bandalag Argyle-safnaða.

Ákveðið var, að prestar kirkjufélagsins allir skyldi hafa sömu réttindi á fundinum eins og hinir kjörnu fulltrúar, og öllum öðrum kirkjuþingsmönnum var veitt málfrelsi, svo og sendimanninum frá General Council, Alfred Ramsey presti.

Eftir nokkrar undirbúningsrœður var svo látandi tillaga borin upp til atkvæða og samþykkt:

„Vér, erindsrekar bandalaganna, sem hér erum saman komnir, ásamt prestum kirkjufélagsins, erum hugmyndinni um allsherjar bandalag innan kirkjufélagsins hlynntir, álítum nauðsynlegt, að rœtt verði og samþykkt frumvarp til laga fyrir slíkan félagsskap á þessu þingi, er síðan verði lagt fram fyrir hvert bandalag til samþykktar á árinu, og, fái hugmyndin almennt fylgi, þá verði slíkr almennr félagsskapr stofnaðr að ári liðnu af þar til kjörnum erindsrekum frá bandalögunum.“

Í nafni bandalagsnefnarinnar, sem kirkjuþingið í fyrra setti (séra Jónas A. Sigurðsson, séra Jón J. Clemens og Runólfr Marteinsson), kom fundarstjóri með frumvarp til grundvallarlaga fyrir hið fyrirhugaða bandalag kirkjufélagsins. Og eftir að það hafði lítið eitt verið rœtt, var þeim séra Jóni Bjarnasyni, séra Friðrik J. Bergmann og Magnúsi Pálssyni falið að yfirlíta það, laga það, þar sem þeim sýndist nauðsynlegt, og leggja síðan aftr fyrir fundinn hið bráðasta.

þegar gengið var á fund eftir miðdegisverð höfðu þeir lokið yfirskoðaninni og lögðu skjalið fram svo hljóðanda:

FRUMVARP TIL LAGA FYRIR BANDALAG KIRKJUFÉLAGSINS.

*I. Nafn félagsins.*

Nafn félagsins skal vera: Bandalag hins evangeliska lúterska kirkjufélags Íslendinga í Vestrheimi.

*II. Samband bandalagsins og kirkjufélagsins.*

§ 1. Bandalagið er til fyrir kirkjufélagið. það er því háð og frá því óaðskiljanlegt, og verðr að taka alvarlega til greina þær leiðbeiningar og ráðleggingar, sem frá því kunna að koma.

§ 2. Prestar kirkjufélagsins eru allir reglulegir meðlimir bandalagsins og hafa fullkomin erindsreka-réttindi.

§ 3. Kirkjuþingsfulltrúar hafa málfrelsi á fundum bandalagsins.

*III. Trúarjátning.*

Trúarjátning bandalagsins er hin sama og kirkjufélagsins.

*IV. Tilgangr félagsins.*

Tilgangr þessa félags er:

1. Að styðja að því, að unglingafélög (bandalög) komist á í öllum söfnuðum kirkjufélags vors, þar sem unnt er að koma því við.
2. Að beina unglingafélagsskapnum í rétt horf með því að ræða hin ýmsu bandalagsmál á fundum félagsins.
3. Að hvetja meðlimi bandalagsins til ötullar starfsemi í kirkju- og safnaðar-málum.
4. Að efla og styrkja bróðurlega eining og samvinnu hinna ýmsu bandalaga í söfnuðum kirkjufélagsins.

*V. Meðlimir.*

§ 1. Öll bandalög í söfnuðum kirkjufélagsins, sem samþykkja þessi lög, eru meðlimir félagsins; þó því að eins, að engu öðru fólki en því, er heyrir kirkjufélaginu til, sé hér eftir veitt þar inngang̃a, og ekkert í heimalögum þeirra sé í ósamræmi við þessi sambandslög.

§ 2. Hvert félag, sem heyrir bandalaginu til, hefir rétt til að senda einn erindsreka á ársfund fyrir hverja 50 meðlimi eða þar fyrir innan; þó má ekkert félag senda fleiri en 3 erindsreka.

*VI. Fundir.*

Bandalagið skal halda fundi ár hvert í sambandi við ársþing kirkjufélagsins, á þeim tíma, sem forsetar bandalagsins og kirkjufélagins koma sér saman um.

*VII. Embættismenn.*

§ 1. Embættismenn félagsins eru: forseti, varaforseti, skrifari, varaskrifari, féhirðir og varaféhirðir.

§ 2. Skyldur embættismanna eru þær sömu og almennt gjörist í félögum.

§ 3. Embættismenn skulu vera kosnir á hverjum ársfundi.

*VIII. Framkvæmdarnefnd.*

Þessi nefnd samanstendr af embættismönnum bandalagsins. Hún á að undirbúa mál þau, sem koma eiga fyrir ársfund bandalagsins.

*IX. Lagabreytingar.*

Sé um grundvallarlagabreyting að ræða, þá nær hún gildi, ef hún er samþykkt af ⅔ þeirra, er mætt hafa á ársfundi bandalagsins; en þó því að eins, að breytingin hafi verið borin upp á næsta ársfundi á undan.

Frumvarp þetta var breytingarlaust samþykkt í einu hljóði.

*Skýrslur um hin ýmsu bandalög* safnaðanna, myndan þeirra, starf og framfarir, voru því næst lagðar fram á fundinum.—Lang-fjölmennast var bandal. Fyrsta lúterska safnaðar í Winnipeg, með 164 meðlimi, en fámennast bandalag Argyle-safnaða, með 20 meðlimi, enda var það þá alveg

nýstofnað. Sum bandalögin hafa ákveðnar tekjur, er þau verja söfnuði sínum til hjálpar, og eitt þeirra, bandalag þingvallasafnaðar, hefir komið sér upp snotru fundarhúsi skammt frá kirkju safnaðarins.(á Eyford).

Skýrslurnar frá sumum bandalögunum voru að eins munnlega frambornar, en skriflegt ágrip af þeim höfum vér síðar útvegað oss hjá hlutaðeigendum til þess ásamt hinum, er upphaflega voru skriflega framlagðar, að geta birt þær hér í „Sam."

*Frá bandalagi Fyrsta lút. safn. í W.peg.*

(Eftir Magnús Pálsson.)

Bandalag unga fólksins í Fyrsta lút. söfn. í W.peg, var myndað í Marzmánuði árið 1895 með tæpum 50 meðlimum, og er nú meðlimatala 164. Reyndar eru meðlimirnir fleiri, en nokkrir þeirra eru svo langt í burtu, að þeir eru tæpast teljandi, og nokkrir hafa algjörlega afrækt félagið, þó þeir standi á meðlimaskránni, og eru því ekki teljandi með.

Bandalaginu er skift niðr í „deildir"; eru 10 í flestum þeirra. Hver deild hefir sinn formann, og á hann að líta eftir því meðal annars, og sérstaklega, að deildarmeðlimirnir sœki fundi og greiði gjöld sín.

Bandalagið heldr fund í viku hverri, og eru fundirnir þrennskonar: trúmálafundir, menntamálafundir og starfs- og skemmtifundir. Sérstök nefnd er kosin til þess að sjá um prógramm fyrir hvern af þessum þrennskonar fundum.

Sjálfboðnar nefndir hafa myndazt innan bandalagsins til þess að styðja að kirkjugöngu, draga ungmenni að sunnudagsskólanum, vitja bágstaddra, útbreiða hin íslenzku málgögn lútersku kirkjunnar og *Luther League Review*, prýða kirkjuna við hátíðleg tœkifœri og fleira.

Meðlimagjald í bandalaginu er 10 cents innritunargjald og 5 cents mánaðargjald.

Lengi hélt bandalagið fundi sína ýmist í kirkju safnaðarins eða í leigðu húsnæði, og borgaði það leiguna úr sjóði sínum; en nú hefir söfnuðrinn lagt því til húsnæði á North West Hall, og borgar hann leiguna.

Sjóðr bandalagsins er nú $34.00 í peningum og um $30 00 í útistandandi skuldum hjá meðlimum. Auk þess hefir það safnað nálægt $50.00 (með frjálsum samskotum) upp í píanó. Bandalagið hefir gefið $50.00 til safnaðar, $20.00 í skólasjóð, $12.50 upp í fargjald kirkjuþingserindsreka (á þingið í Minneota) og $5.00 til bágstaddrar fjölskyldu. Þannig á það þá yfir $100.00 og hefir gefið $87.50.

Þetta, sem skýrt hefir verið frá hér að framan, er nú fremr glæsilegt, og þeir, sem það sjá og heyra, hafa ástœðu til að halda, að bandalag vort sé í miklum uppgangi og blóma. En þér skulið ekki halda, að svo sé. Að minnsta kosti finnst oss sjálfum, að það ekki vera svo. Þrátt fyrir alla viðleitni til þess að fá meðlimina til þess að sœkja fundi, og þrátt fyrir það, að vissir menn og konur hafa lagt hina mestu og beztu alúð við fundina, til þess að gjöra þá skemmtilega og uppbyggilega, þá

eru þeir mjög illa sóttir yfirleitt, og árangrinn af allri starfseminni því orðið sýnilega mjög lítill. Vér höfðum gjört oss von um, að félagsskapr þessi myndi verða kirkju vorri til blessunar, — að ungmennin með því myndi læra að verða sístarfandi að efling og útbreiðslu orðsins vor á meðal,—að aðsóknin að kirkjunni og sunnudagsskólanum myndi fara vaxandi,—að nýtt kristindómslíf myndi fœrast yfir og inn í vorn kirkjulega félagsskap. En vér finnum mjög svo til þess og neyðumst til að kannast við það, að sjáanlega hafa þessar vonir brugðizt. Vér höfðum vonazt eftir, að þeir menn, sem bandalagsstarfseminni innan lútersku kirkjunnar eru kunnugastir og til þess hafa verið kvaddir að leiðbeina og hjálpa í þessari byrjunartilraun vor á meðal, myndi rétta oss hjálparhönd. Einnig þær vonir hafa algjörlega brugðizt.

Vér vonum, að á þessu bandalagsþingi komi fram margar og þýðingarmiklar bendingar til vor, svo að bandalagsstarfsemin vor á meðal taki framförum við þær og verði svo, eins og vér höfðum gjört oss svo miklar vonir um, meðlimum þess til andlegrar uppbyggingar og blessunar, vorum kirkjulega félagsskap til eflingar og kristindómsorðinu til útbreiðslu á meðal þeirra Íslendinga í bœ þessum, sem fyrir utan þann félagsskap standa.

## *Frá bandalagi St. Pálssafnaðar í Minneota.*

(Eftir séra Björn B. Jónsson.)

Félagið var stofnað á nýarsdag 1896. Meðlimatala er nú 51. Lög félagsins eru sniðin eftir lögum hinna lútersku bandalaga hér í landi. Félagið heldr fundi einu sinni í viku mestan part ársins. Fundirnir hafa verið þrennskonar: trúmálafundir, menntamálafundir og skemmtifundir. Í síðustu tíð hafa þó skemmtifundirnir að mestu verið lagðir niðr, og eru nú oftast haldnir til skiftis trúmála- og menntamálafundir. Sérstakar nefndir félagsmanna eru settar til að búa undir fundina. Á trúmálafundunum hafa ýmsar lexíur úr biblíunni og kirkjusögunni verið kenndar; og auk þess hafa ungmennin all-oft tekið til umtals eitthvert trúaratriði, hafa skrifað um það stuttar greinir heima hjá sér og lesið þær svo á fundunum. Biblíulexíurnar hefir prestrinn oftast útskýrt. Hefir á þann hátt verið gengið all-rœkilega í gegnum Gjörðabók postulanna og í sambandi við það lýst ástandi hinna fyrstu safnaða. Einnig hefir verið lesið bréf Páls til Rómverja og fleiri biblíukaflar. Siðbótarsagan hefir á trúmálafundunum verið sögð af prestinum og æfisögur þeirra Lúters og Melanktons verið hugleiddar. Auk þessa eru á trúmálafundunum sungin og lesin andleg ljóð og farið með kristilegar ritgjörðir úr blöðum og bókum.

Á menntamálafundunum er farið með ýmsan fróðleik. Meðlimunum hefir t. d. verið sett fyrir að leita upplýsinga um eitthvert sögulegt atriði eða persónur. Lesa þeir þá, hver eftir annan, það, sem þeir hafa skrifað um efnið. Spurningum er spurt og svarað. Sérstök viðleitni hefir verið gjörð á menntamálafundunum til að æfa unglingana í upplestri og um tíma voru hafðar æfingar í íslenzkri réttritun. All-margar rœður hafa á þessum fundum verið haldnar um íslenzkar bókmenntir.

Reynt er að láta ungmennin sjálf taka sem mestan þátt í starfseminni. Sjálf skipa þau öll embætti og nefndir og stýra fundunum. Bandalagið hefir komið sér upp dálitlu bókasafni, og fá félagsmenn bœkrnar lánaðar á fundum og lesa þær heima.

*Frá bandalagi Þingvallasafnaðar, Eyford, N.-Dak.*

(Eftir Runólf Marteinsson.)

Þetta bandalag er hið þriðja í röð af bandalögum kirkjufélagsins. Það var stofnað í Marz 1896. Fáir vildu sinna þeim félagsskap í fyrstu, og satt að segja vorum vér öll, sem nokkuð áttum við þann félagsskap, í fyrstu mjög fákunnandi, og þar af leiðanda hvert axarskaftið á fœtr öðru. Á fyrsta fundi mœttu að eins sjö manns. Lögin, sem fyrst voru samþykkt, líkuðu sumum illa. Verst var það þó, að söfnuðinum líkaði illa við oss, og sýndist stundum, að það væri ómögulegt fyrir oss að hegða oss þannig,að gjörðir vorar væri ekki lagðar út á verra veg. Vér gjörðum alveg rangt í því að álíta prestinn ekki sjálfsagðan meðlim og leita ekki hans ráða eins og skyldi. Þetta allt hefir orðið oss til ómetanlegs tjóns í voru stríði. Sá skaðlegi misskilningr komst líka inn hjá sumu unga fólkinu, að það væri hœgt að samríma dans við slíkan félagsskap. Einnig þetta hafði mjög skaðvæn áhrif á hið unga og veika félag.

Þrátt fyrir allt þetta, sem á móti hefir blásið,er þó talsverð framför. Bandalagið hefir glœtt félagsanda hjá meðlimum sínum. Það hefir kennt þeim talsvert að starfa á fundum og í nefndum. Sumir félagsmenn hafa sýnt brennanda áhuga fyrir velferðarmálum bandalagsins og lagt mikið á sig fyrir félagsskapinn. Þó félagið sé enn mjög fámennt, er það þó búið að koma upp myndarlegu fundarhúsi, og á vel við, að það hús, sem er helgað nytsemi, fróðleik og kristilegri uppbygging, standi einmitt þar sem það stendr, skammt frá kirkju safnaðarins. Þessi skemmtilega eign félagsins er nú nærri skuldlaus.

Trúmálafundir voru í fyrstu örðugastir viðreignar, og reyndum vér fleira en eitt fyrirkomulag. Unga fólkið var fyrst tregt til að taka almennan þátt í þeim fundum sérstaklega. Á þeim fundum tókum vér fyrir kristniboðsmálið, ýms atriði úr kirkjusögunni, rœður um trúarleg atriði, og síðastliðið sumar, æfisögur, starf og áhrif sumra helztu mannanna í gamla testamentinu.

Menntamála- og skemmti-fundir gengu yfir höfuð ekki illa, og var margt nytsamlegt og skemmtanda, sem kom fram á þeim.

Félag vort er mjög fámennt enn þá, en þó höfum vér góða von fyrir framtíðina og biðjum guð að blessa starf vort.

*Frá bandalagi Pembina-safnaðar.*

(Eftir Gunnar Jóhannsson.)

Bandalag Pembina-safnaðar var stofnað í Janúar 1897 með nálægt 30 meðlimum. Nú hefir það nærri 50 meðlimi. Fundir félagsins eru þrennskonar: trúmálafundir, menntamálafundir og skemmtifundir.

Vanalega eru fundirnir haldnir mánaðarlega. Enn sem komið er hefir félagið mjög lítið starfað, en nú hefir það í hyggju að kaupa altari

í kirkjuna eins fljótt og það mögulega getr. Engri verulegri mótspyrnu hefir félagið átt að mœta. Einna verst gengr að hafa upp prógramm.

Hvað framtíð félagsins snertir, hefi eg góða von um, að það eigi góða og blessunarríka framtíð fyrir höndum.

### *Frá bandalagi Vídalínssafnaðar.*

(Eftir Jón Þórðarson.)

Félag vort var stofnað 14. Marz 1897 með 34 meðlimum. Nú hefir það 73 meðlimi. Félagið heldr fundi tvo í mánuði, nefnil: trúmálafundi, menntamálafundi og skemmtifundi, og hafa þeir verið vel sóttir eftir ástœðum. Tekjur félagsins eru:

| | |
|---|---|
| Inngangseyrir og tillög félagsmanna | $ 43.20 |
| Ágóði af samkomu | 27.20 |
| Safnað í frjálsum samskotum | 51.60 |
| Tekjur alls | $ 122.00 |

Félagið hefir borgað út:

| | |
|---|---|
| Fyrir altari í kirkjuna | $ 113.00 |
| Fyrir bœkr og ýmislegt | 4.00 |
| Gefið fátœkum manni | 5.00 |
| Útborgað alls | $ 122.00 |

Félagið á útistandandi hjá félagsmönnum $25.00.

### *Frá bandalagi Garðar-safnaðar.*

(Eftir Brand J. Brandsson.)

Bandalag Garðar-safnaðar var stofnað í Júní 1897 með 23 meðlimum. Nú eru rúmlega 60 manns innritaðir í félagið. Grundvallarlög þess eru að mestu leyti hin sömu og bandalags hins Fyrsta lúterska safnaðar í Winnipeg.

Félagið hefir haldið fundi sína tvisvar í mánuði: trúmálafundi, menntamálafundi og skemmtifundi til skiftis. Fundirnir hafa verið yfir höfuð fremr vel sóttir, þegar tekið er tillit til hinna ýmsu örðugleika, sem er við að stríða. Áhugi manna fyrir velferð félagsins hefir sýnzt vera töluvert mikill, og flestir félagsmenn hafa reynt að gjöra sitt til, að félagsskaprinn gæti gengið vel. Samt má eflaust þakka séra F. J. Bergmann meir en nokkrum öðrum, að félaginu hefir gengið eins vel og því hefir gjört. Hann hefir sótt svo að segja alla þess fundi og nær því æfinlega komið fram á prógrammi fundanna, og á annan hátt hjálpað til að gjöra fundina sem uppbyggilegasta. Félagsmenn yfir höfuð gjöra sér góðar vonir um framtíð þess og vona, að það geti orðið meðlimum sínum til gagns og söfnuðinum og hinum kirkjulega félagsskap til uppbyggingar.

Í skýrslunni frá bandalagi Argyle-safnaða, sem húsfrú Pálína Steinsson bar fram, var að eins tekið fram, að það bandalag væri nýmyndað með meðlimatölu þeirri, sem þegar er um getið.

Í standandi nefnd til þess að halda bandalagsmálinu í réttu

horfi til næsta ársfundar voru kosnir: séra Jónas A. Sigurðsson, séra Jón J. Clemens og Brandr J. Brandsson, stud. med.

Samkvæmt áskoran fundarstjóra héldu þeir séra Friðrik J. Bergmann og séra Jón Bjarnason ræður, hinn fyrr nefndi um fyrirkomulag og gagn trúmálafunda í bandalaginu, og hinn síðar nefndi um það, hvað einkum ætti að vera markmið menntamálafundanna. Þeir töluðu hvor um sig hér um bil hálfa klukkustund.

Áðr en bandalagsfundi þessum var slitið var sungið 2. versið af sálminum nr. 420 í sálmabókinni:

„Með eigin kröftum enginn verst“ o. s. frv.

## Synodus

eða prestastefnan lögákveðna á Íslandi var í sumar haldin í Reykjavík undir lok Júnímánaðar eins og tíðkazt hefir um nokkur næstliðin ár, og stóð hún yfir í tvo daga, hinn 28. og 29. þess mánaðar. Áðr en samkoman væri sett var að vanda guðsþjónusta haldin í kirkjunni, og prédikaði séra Skúli Skúlason í Odda á Rangárvöllum við það tækifæri og lagði út af þessum orðum í síðara bréfi Pétrs (3,18): „Vaxið í náð og þekking drottins vors Jesú Krists.“ Prédikan þessi er prentuð í „Verði ljós!“, Júlí-númerinu.

Samkoman var fámennari en sú í fyrra. „Verði ljós!“ segir, að þar hafi verið viðstaddir „hér um bil“ 25 prestar og prófastar auk stiftsyfirvaldanna. En nöfn presta þessara sjást hvergi.

Auk hins vanalega *synodus*-starfs, útbýtingar styrktarfjárins árlega til uppgjafapresta og prestaekkna samkvæmt tillögum stiftsyfirvaldanna, lágu eiginlega tvö aðalmál fyrir prestastefnunni í þetta sinn. Annað þeirra var hið svo kallaða handbókarmál, en hitt málið um aðskilnað ríkis og kirkju eða fríkirkjumálið. En í rauninni var að eins hið fyrr nefnda af þessum málum tekið fyrir. Eins og vér gátum um hér í blaðinu í fyrra þar sem skýrt var frá *synodus* þess árs, sýndust menn hafa skilið við fríkirkjumálið þá í þeirri öruggu von, að það myndi á næsta ári koma betr undirbúið inn á *synodus* og gæti svo þá vandlega orðið tekið til meðferðar. En þessi von rættist ekki.

Eftir fjörkippinn, sem í menn hljóp á *synodus* í fyrra út af þessu máli, sýnist það hafa lagzt í dá í hugum manna, því alls enginn undirbúningr hafði verið gjörðr eftir því, sem séð verðr, til þess að það gæti legið fyrir til umrœðu á þessari *synodus* í ákveðnara formi en áðr. Og svo var það þá enn látið bíða seinni tíma. Í einu Reykjavíkr-blaðinu er þess getið, að séra Jóhannes L. L. Jóhannsson að Sauðafelli, einn þeirra, sem mest töluðu með aðskilnaði ríkis og kirkju á *synodus* í fyrra, og vitanlega einhver helzti talsmaðr fríkirkjunnar, hafi ekki í þetta sinn komið á *synodus* fyrr en undir fundarlok, og ef til vill fyrir þá sök hefir máli þessu enn verið frestað.

Handbókarmálið lá fyrir undirbúið í hinu prentaða frumvarpi til laga um nýtt form fyrir guðsþjónustum og embættisverkum presta frá þar til kjörinni nefnd frá 1892. Hallgr. biskup Sveinsson hafði látið prenta það frumvarp í fyrra og lagði það fram á *synodus* þá. En nálega ekki var það þá rœtt, með því menn höfðu ekki áðr fengið neitt fœri á að kynna sér það. Aftr á móti var ætlazt til, að mál þetta gæti orðið útkljáð á næstu *synodus*, og í því skyni var hið prentaða frumvarp þegar í fyrra sumar sent prestum út um allt land þeim til íhugunar. Og skyldi allar athugasemdir, sem prestar kynni að gjöra við frumvarpið, sendast biskupi fyrir miðjan Maí í ár, svo handbókarnefndin gæti verið búin að kynna sér þær áðr en þessi *synodus* væri haldin. Um leið og biskup nú lagði málið fyrir *synodus* gat hann þess líka, að all-margar slíkar athugasemdir frá prestum landsins hefði komið til nefndarinnar, og hefði nefndin leitazt við að taka tillit til þeirra eftir því, sem hún hefði séð sér fœrt.

Í ellefta og tólfta blaði af síðasta árgangi „Sameiningarinnar“ skýrðum vér all-ítarlega frá efni hins prentaða handbókarfrumvarps og komum með vorar athugasemdir við hina ýmsu þætti þess. En mest töluðum vér þó þar um hinar tvær nýju guðspjallatextaraðir, sem nefndin hafði útvalið til notkunar við guðsþjónustur safnaðanna á helgidögum kirkjuársins í viðbót við hin fastákveðnu gömlu guðspjöll. Oss fannst, að sá partr af verki nefndarinnar stœði einna mest til bóta. Og sama finnst oss enn. Vér bentum mjög skýrt á ýmsar misfellur í þessu nýja textavali og sýndum meira að segja fram á, að

flestar, ef ekki allar, breytingar, sem gjörðar höfðu verið á aukatextavali dönsku og norsku kirkjunnar, væri til skemmdar. Eftir því, sem kemr fram í „Verði ljós!“, hafði nú handbókarnefndin engar breytingar gjört á textunum frá því, sem er í prentaða frumvarpinu, „enda ekki hœgt að taka til greina þær fáu athugasemdir, er gjörðar höfðu verið við þá, með því að þær hefði riðið í bága við meginreglu nefndarinnar fyrir textavalinu.“ Hér er víst átt við tillögur þær til breytinga, sem nefndinni hafa borizt frá prestum víðsvegar um land þar heima, með því þær sýnast helzt hafa farið í þá átt, að bœta engum nýjum textum við, heldr innleiða takmarkalaust textafrelsi. Og er skiljanlegt, að nefndin hafi ekki getað tekið þær tillögur til greina, þar sem hún í samhljóðan við það, er hvervetna tíðkast enn í lútersku kirkjunni, var ákveðin í því að halda fast við hina gömlu og göfugu kirkjuárshugmynd. En vorar athugasemdir við textavalið fóru í allt aðra átt. Því þar var einmitt gengið út frá hinu sama, sem augsýnilega hefir vakað fyrir nefndinni, því nefnilega, að velja hina nýju texta með tilliti til tíðaskifta kirkjuársins og hinna gömlu guðspjalla. Frá því sjónarmiði voru allar vorar athugasemdir við aukatextaval nefndarinnar gjörðar, og því hefði henni átt að vera bæði ljúft og skylt að sinna þeim að einhverju leyti. En það hefir hún þó alls ekki gjört. Og eftir því, sem séð verðr í „Verði ljós!“, ekki heldr neinn annar af *synodus*-prestunum. Nokkur bót í máli er þó það, að tekið var fram á fundinum, að „ekki væri enn lögð síðasta hönd á verkið, að því,er textana snertir, og nefndin áskildi sér rétt til að gjöra þær breytingar, er þurfa þœtti, þegar til kœmi.“ Það er þannig ekki með öllu skotið loku fyrir, að eitthvað af bendingum vorum út af hinu nýja textavali verði enn tekið til greina, og að minnsta kosti teljum vér víst, að augsýnilegustu kórvillurnar, sem vér skýrðum frá, verði leiðréttar áðr en þessi partr frumvarpsins verðr gjörðr að bindandi lögum fyrir kirkjuna á Íslandi.

Að því, er guðsþjónustuformið snertir, lagði nefndin það nú til, „að prestum yrði leyft, ef þeir vildi, að lesa postullegu trúarjátninguna af prédikunarstól milli bœnar og guðspjalls.“ Þetta er skrítileg tillaga. Rétt eins og prestum eins og nú standa sakir sé þetta óleyfilegt. Annað eins ákvæði væri lok-

leysa eða ómynd, allt að því hneyksli. Annars voru mjög óverulegar breytingar gjörðar við guðsþjónustuform frumvarpsins.

Í staðinn fyrir skírnarform frumvarpsins, sem séra Valdemar Briem hafði samið, kom nefndin nú fram með annað form fyrir þeirri kirkjulegu athöfn, sniðið eptir skírnarformi, sem nýlega er innleitt í dönsku kirkjunni, með því að form séra Valdemars þótti of langt. Þessi tillaga nefndarinnar var samþykkt. — Samþykkt var og sú tillaga frá nefndinni, að teknar væri upp ákveðnar lesgreinir og bœnir við greftran framliðinna, í því skyni að gjöra þá athöfn fyllri og áhrifameiri, að dœmi sœnsku og ensku kirkjunnar (samkvæmt bendingum frá séra Þorvaldi Bjarnarsyni á Melstað). — Flest-allt annað í formum hins prentaða frumvarps fyrir embættisverkum presta var samþykkt óbreytt.

Í einu lagi var svo handbókarfrumvarpið með áorðnum breytingum borið upp til atkvæða og samþykkt í einu hljóði. En biskupi og meðnefndarmönnum hans, þeim, er næst honum búa, var falið á hendr, „að leggja síðustu hönd á verkið og sjá um útgáfu hinnar nýju handbókar.“ Í nefndinni eru þessir menn: Hallgrímr biskup Sveinsson, séra Þórhallr Bjarnarson, séra Valdemar Briem, séra Jón Helgason og séra Jens Pálsson. Hinum tveim síðast nefndu var bœtt við í nefndina á *synodus* í fyrra.

Síðan farið var að eiga við þjóðminningardagahaldið úti á Íslandi hefir það sumsstaðar orðið að venju að velja til þess einhvern sunnudag, og hefir það leitt til þess, að guðsþjónustur þann dag hafa fallið niðr. Út af þessu var samkvæmt bending frá biskupi á þessari *synodus* borin fram tillaga um það, að prestar gengist fyrir því, að ef slíkar samkomur væri haldnar á sunnudögum, þá væri guðsþjónusta haldin á þeim samkomum. En sú tillaga var felld.

Þá hreifði biskup enn eins og í fyrra nauðsyninni á því, að fyrirkomulag *synodus*ar yrði bœtt. Hélt hann því fram, að samkoma þessi gæti þá fyrst haft verulega þýðing, ef á henni ætti sæti erindsrekar úr öllum prófastsdœmum landsins í staðinn fyrir frá að eins fimm prófastsdœmum eins og hingað til hefir verið ætlazt til. En jafnframt var bent á þau tormerki

við þessa breyting, að menn úr hinum fjarlægari héruðum myndi eigi sjá sér fœrt að sœkja prestastefnuna upp á eigin kostnað. Og hvar ætti þá að hafa upp fé í þessu skyni? það myndi að minnsta kosti þurfa um 3000 krónur árlega, og að eins nokkurn part af þeirri upphæð myndi alþing verða fáanlegt til að veita úr landssjóði. Eini vegrinn væri, að þeir landsmenn, sem helzt væri kirkjunni hlynntir, tœki að sér að standast þennan kostnað. — það er meiri kirkjulegr áhugi á Íslandi en vanalega er gengið út frá, ef menn svona á frjálsan hátt fást til að taggja þetta á sig. þetta myndi naumast fá framgang. En þar á móti mætti hjálpa málinu við á annan hátt. það þarf ekki endilega allt af að halda þessa prestastefnu á sama stað — í höfuðstaðnum Reykjavík. það væri miklu skynsamara að halda hana sitt árið í hverjum landsfjórðungi eða til skiftis í hinum ýmsu aðalhéruðum landsins. Og þá gæti menn ferðazt þangað algjörlega upp á eigin býti — engu síðr en nú úr hinum fimm prófastsdœmum til Reykjavíkr. Auðvitað myndi samkoman þá langbezt verða sótt úr þeim héruðum, sem næst lægi fundarstaðnum. En það jafnaðist viðunanlega við það, að árlega væri skift um stað fyrir fundarhaldið. Með því móti yrði *synodus* fyrir allt landið og ætti að geta orðið kirkjulífinu víðsvegar um land til miklu meiri uppvakningar og stuðnings en búast má við með því fyrirkomulagi, sem nú er. En auðvitað ætti ekki að eins að hugsa um það, að fá prestana á þetta íslenzka kirkjuþing, heldr líka kjörna erindsreka úr hópi leikmanna, að minnsta kosti eins marga og prestvígðu mennina, sem þar ætti sæti.

---

## Í Sauðárkrók

héldu prestarnir í Skagafjarðarsýslu og Húnavatnssýslu kirkjumálafund 8. og 9. Júní í sumar, sem talsverða athygli sýnist hafa vakið víðsvegar um land. 16 prestar voru þar saman komnir. það stóð til, að prestarnir í Eyjafirði yrði þar með; en af því varð ekki. Séra Sófónías Halldórsson, prófastr Skagfirðinga, var kjörinn fundarstjóri og flutti hann áðr prédikan í Sauðárkróks-kirkju út af þrem versum í 10. passíusálminum (11.—13.: „þú, guðs kennimann, þenk um það: þar mun um síðir grennslazt að, hvernig og hvað þú kenndir“ o. s. frv.). Eitt

fundarmálið var líka einmitt um það, hvernig prestar eigi að prédika, og hóf sami maðr þær umræður. Af öðrum málum, er tekin voru fyrir, má nefna: samtök presta í því skyni að styðja hver annan í hinu sameiginlega kirkjustarfi, altarisgöngumálið — og leiddi séra Hjörleifr Einarsson, prófastr Húnvetninga, þau mál bæði inn á fundinn, hvort fyrir sig með sérstökum fyrirlestri — og um stofnan unglingafélaga (einnig innleitt af séra Hjörleifi). Til að koma samtökum á meðal presta í þessum tveim prófastsdœmum var samþykkt, að þeir gengi í lögbundið félag, og reyndi til að fá prestana í Eyjafirði og þingeyjarsýslu með sér í þann félagsskap. Ákveðið, að félagsmenn haldi árlega einn aðalfund að sumarlagi, sem allir sœki að forfallalausu. Eftir hinni upphaflegu tillögu séra Hjörleifs skyldi reynt að koma unglingafélögum á í söfnuðunum með sérstöku tilliti til altarisgöngu, sem allir játuðu að endilega þyrfti að glœða. En tillögunni var breytt í þá átt, að markmið slíks félagsskapar skyldi vera glœðing kristilegs og kirkjulegs áhuga hjá henni uppvaxandi kynslóð yfir höfuð. Séra Hjörleifr hefir þegar komið á unglingafélagi í sínu prestakalli og hefir í því máli eins og öðru sýnt sinn mikla kirkjulega áhuga.

Sú var ein samþykkt, er gjörð var á þessum prestafundi, að skorað skyldi á kirkjustjórn Íslands, að gjöra það, sem hún geti, til þess, að þrír nafngreindir prestar í öðrum pörtum landsins segi af sér embætti. Og er það tilfœrt sem ástœða, að fundarmenn hafi lesið og heyrt, að þessir prestar „hafi ár eftir ár lifað í ófriði við sóknarbörn sín“ og „þar af leiðanda vinni ekki söfnuðum sínum það gagn í sáluhjálplegu tilliti, sem prestum samkvæmt hinni háleitu stöðu þeirra beri að vinna.“ Skiljanlega hefir þessi ályktan ekki mælzt vel fyrir. Hvað sem um hlutaðeigandi presta kann að mega segja, þá er eitt víst, að þessi siðbótartilraun er ekki líkleg til að ná tilgangi sínum, og í annan stað er hún ekki samkvæm guðs orði. Fundrinn hefði átt að sjá það fyrir, að prestar þeir, sem þar er við átt, myndi ekki skipast við svona lagaða áminning, myndi þvert á móti reyna til að sitja sem fastast við sinn keip, eftir að á þennan hátt var búið að fella yfir þeim sakfellingardóm opinberlega frammi fyrir öllum landsins lýð. það var sálarfrœðislega ó-

hugsanlegt, að þeir fengist til að játa nokkra sök hjá sjálfum sér eftir að þeir svona vægðarlaust höfðu verið settir í andlegan gapastokk. En svo hefði prestafundr þessi líka átt að muna eftir kirkjuagareglunni, sem vér höfum frá Jesú Kristi sjálfum og rituð stendr í Matt. 18, 15—17. Því á því er enginn vafi, að sú regla, sem þar er gefin, á ekki síðr við þess konar brot á móti kirkjunni, sem hér var um að rœða, en brot á móti einstökum limum hennar. En reglan er þessi, að vanda fyrst um við hinn brotlega mann heimulega, og ef hann hlýðir áminningunni, þá þarf ekki lengra að fara. En verði þetta árangrslaust, þá að áminna hann í votta viðrvist. Og dugi það ekki, þá að segja söfnuðinum frá, gjöra málið opinbert. Nú skilst oss, að þessi Sauðárkróksfundr hafi haldinn verið fyrir lokuðum dyrum og engir þar viðstaddir nema prestarnir og einn ungr guðfrœðisnemi, hr. Friðrik Friðriksson. Hœglega hefði því mátt láta þessa sérstöku fundarályktan liggja í þagnargildi og komast hjá því, að hún bærist í blöðunum út um allt land og þá auðvitað til hlutaðeigandi presta löngu áðr en kirkjustjórnin gat verið búin að fá tíma til að framkvæma það, sem þar er beðið um. Gestrinn, sem sat á fundinum og þegar er nefndr, hefir ritað hlýlega grein í „Ísafold“ um samkomu þessa og lætr hann mikið af alvöru þeirri og kirkjulega áhuga, sem þar hafi komið fram; segir meðal annars, að mál þetta hafi verið rœtt „með ugg og andvara“. Og efumst vér ekki um, að þetta sé rétt hermt. En þetta réttlætir þó ekki meðferð fundarins á málinu, því þar á augsýnilega við það, sem Páll postuli segir í Róm. 10, 2.: „Þeir hafa vandlæting guðs vegna, en ekki með skynsemd.“

---

*Annar frjáls kirkjumálafundr*

var haldinn að Blönduósi 9. Ágúst, og sóttu hann flestir af prestunum í Húnaþingi. Hafði prófastrinn þar, séra Hjörleifr Einarsson, gengizt fyrir þessu fundarhaldi. Á þeim fundi var og séra Jónas A. Sigurðsson, sem dvalið hafði þar hjá fólki sínu síðan snemma í Júlí. Þar voru ein sex mál á dagskrá: *messuföll* og ráð til að afstýra þeim, *lestr heilagrar ritningar*, *sálusorgin*, *erfisdrykkjur* (þær tíðkast enn í bókstaflegum skilningi all-víða á Íslandi), afstaða presta gagnvart *bindindishreifingunni* og *fríkirkjumálið*. Um hið síðast nefnda mál segir þó „Verði ljós!“, að það hafi ekki verið rœtt, en að eins komizt á dagskrána með hinum málunum, seinast, „svo sem til eftirmatar“. Áhuginn fyrir því sýnist vera heldr lítill nú. En öll þessi mál er ætlazt til að tekin verði fyrir á næsta aðalfundi

hins nýstofnaða prestafélags, Húnvetninga og Skagfirðinga. — Séra Jónas flutti bœn í fundarlok.

---

Séra Jónas A. Sigurðsson er væntanlegr hingað vestr tilbaka úr Íslands-ferð sinni fyrir lok þessa mánaðar, verðr ef til vill kominn áðr en þetta blað af „Sam." er komið út. Meðan hann dvaldi í Húnavatnssýslu prédikaði hann þar á ýmsum stöðum : í Blönduósskirkju 10. Júlí, í Undirfellskirkju 17. Júlí, í þingeyrakirkju 31. Júlí — eftir tilmælum prestanna í þeim sóknum. þetta höfum vér úr bréfi frá honum, rituðu 2. Ágúst. En í ýmsum öðrum kirkjum hefir hann víst prédikað eftir það. Undir lok Ágústmánaðar bjóst hann við að fara úr Húnavatnssýslu vestr í Breiðafjarðardali, þá til Reykjavíkr og eftir það, ef til vildi, austr í Arnessýslu.

---

Séra Friðrik J. Bergmann hefir verið talsvert bilaðr á heilsunni lengst af síðan á kirkjuþingi í sumar. Og missíónarferðina til Roseau, sem um er getið í síðasta blaði „Sam.", fór hann miklu fremr af vilja en mætti. Samkvæmt læknisráði tók hann sér hvíld frá sínum vanalegu störfum tveggja vikna tíma framan af Septembermánuði, fór að heiman frá sér til Detroit í Minnesota og dvaldi þar. Fólk leitar mjög í það pláss á sumrum sér til heilsubótar. Séra Friðrik hresstist og styrktist líka talsvert við ferðina þangað. Og er óskanda og vonanda, að sú heilsubót haldi áfram.

---

**Aldamót** fyrir þetta ár verða prentuð hér vestra, í Winnipeg. Væntanlega koma þau út fyrir lok Nóvembermánaðar. Allir hinir undangengnu árgangar ritsins, sjö að tölu, hafa prentaðir verið úti á Íslandi, í Reykjavík.

---

Sýnishorn af skrautlegum eyðublöðum undir hjónavígslu- og skírnar-skýrteini hafa „Sam." verið send frá Carl Hirsch, 157 Prince St., New York. Hvert eitt kostar 25 cts., en 12 í einu $2.40.

---



„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Björn B. Jónsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.